# FRUMVARP

til

# Grundvallarlaga Íslands.

## I.

*Um stjórnarlögunina og trúarbrögðin.*

1. gr. Ísland er frjálst þjóðfjelag út af fyrir sig, ódeilanlegt og óafsalanlegt, sameinað Danmörku undir einum og sama konungi, og ræður nú verandi konungur og konungar Oldenborgarættar yfir því með takmörkuðu valdi.

2. gr. Hin evangelisku-luthersku trúarbrögð eru þjóðtrú Íslendinga.

## II.

*Um framkvæmdarvaldið og konunginn.*

3. gr. Framkvæmdarvaldið er í höndum konungs.

4. gr. Konungur má vera, hvort sem vill evangelisk — lutherskrar eða reformertrar trúar; en vernda skal hann þjóðtrú lands vors.

5. gr. Konungur má án samþykkis alþingis vera konungur yfir hverjum helzt löndum sem hann vill.

6. gr. Konungur hefur alls enga ábyrgð á hendi, og er áfríunarlaus fyrir sjálfan sig. En ábyrgð öll fyrir stjórnarathöfn hvílir á þeim þremur stjórnarherrum, sem fyrir eru í landinu sjálfu, og þeim fulltrúa Íslendinga, sem í Danmörku er.

7. gr. Þau nú gildandi erfðalög Danakonunga samþykkja Íslendingar, meðan Oldenborgarætt ræður þar ríki; en þegar hún deyr út, eður önnur konungaætt kemur til ríkis, skal það á valdi þjóðarinnar, hvort hún játar hollustu Danakonungum eður eigi.

8. gr. Myndugur er konungur, þegar hann er fullra 18 ára.

9. gr. Áður konungur hefur tekið við ríkisstjórninni, afhendi hann fulltrúa Íslendinga eiðsskjal, staðfest með nafni sínu og innsigli ríkisins, svo látandi: jeg heiti og sver að halda og hefða grundvallarlög Íslands, svo sannarlega hjálpi mjer guð og hans heilaga orð! Þetta eiðsskjal skal sendast næsta alþingi.

10. gr. Þegar konungur Oldinborgarættar álítur nauðsynlegt, annaðhvort vegna burtferðar eða veikleika, að ríkisstjóri sje settur, og þjóðþing Dana hefur samþykkt lagafrumvarp konungs um það efni, þá skal það frumvarp einnig sendast alþingi til samþykktar.

11. gr. Verði konungur óhæfur til ríkisstjórnar, og þjóðþing Dana hefur ákveðið að taka sjer ríkisstjóra, þá skal ákvörðun sú einnig sendast alþingi til meðferðar.

12. gr. Ef það kemur fyrir, að ríkiserfingi við fráfall konungs, verði ómyndugur eður óhæfur til stjórnar, þá skulu þau lög, sem konungur kynni að semja áhrærandi ríkisstjóra, sendast alþingi til álita.

13. gr. Hafi alþingi samþykkt ríkisstjóra, hvenær sem hans þykir þurfa í Danmörku, þá afhendi ríkisstjóri fulltrúa Íslendinga eiðsskjal samhljóða því, sem konungunum er fyrir lagt; og skal það eiðsskjal sendast alþingi.

14. gr. Konungur sendi alþingi frumvarp um, hversu mikið Íslendingar eigi að leggja á konungsborð, og skal alþingi ákveða eptir efnahag, fólksfjölda og öðru ásigkomulagi landsins, að hve miklu leyti það frumvarp geti samþykkst.

15. gr. Konungur sendi og frumvarp alþingi um hve mikið Íslendingar skulu leggja til skipaliðs Dana, og skal alþingi segja álit sitt um það, einnig ákveða, hve mikið tilkall landið verði að hafa til varnarliðs Dana um ár hvert, eptir því sem þörf landsins útheimtir.

16. gr. Konungur kýs og setur frá völdum stjórnarherra; gildir lög landsins með eigin undirskript; þó sjeu það gildandi lög, sem

þrjú fast ákveðin alþingi samþykkja, þó konungur neiti undirskript.

17. gr. Í stað amtmanna og landfógeta, sem hafa verið, skulu þrír stjórnarherrar konungs vera í landinu, og skulu þeir hafa aðsetur sitt í Reykjavík. Þeir hafa á hendi alla aðalstjórn landsins; og standa allir aðrir embættismenn í sama sambandi við þá, og þeir staðið hafa við amtmenn og biskup, sem ætíð skal vera einn af stjórnarherrunum; og hafa þeir 3 menn öll þau málefni á hendi, sem stiptamtmaður, biskup, amtmenn og landfógeti hafa haft, og skipta þeir stjórnarmálefnum landsins þannig með sjer, að einn hefur lögstjórnina, annar kirkjustjórnina, og hinn þriðji fjárhagsstjórnina; en í sameiningu skulu þeir hafa skólastjórnina og brauðaveitingar þær, sem konungur þeim í hendur fær.

18. gr. Stjórnarherrar landsins bera málefni þjóðarinnar fyrir konung fyrir milligöngu fulltrúa Íslendinga í Danmörku og skal hann vera ráðgjafi konungs í öllum málefnum Íslands; og reka stjórnarherrarnir þá aptur eyrindi konungs við þjóðina á alþingi, hver fyrir sig í þeim málefnum, sem þeim eru á hendur falin.

19. gr. Embættismenn og stjórnarherrar allir mega ákærast fyrir embættisstörf sín, og ákærir þá alþingi, en landsdómurinn dæmir. Skal fulltrúa þjóðarinnar, sem í Danmörku er, sendast ákæra, sem honum er gjörð; og sje honum í sjálfsvaldi hvort mæta vill sjálfur fyrir landsdómi, eða senda málsvarnir sínar skriflegar.

20. gr. Konungur útbýtir embættum með sama valdi og verið hefur, og má alþingi eigi skerða það vald í nokkru. Til embætta í landinu má einungis Íslendinga kjósa, eður þá af þegnum Danakonungs, sem tala og skrifa íslenzka tungu og hafa áunnið sjer jafnrjetti með innlendum.

21. gr. Konungur víkur úr embættum þeim, sem sjálfur hann setur; en löggjafarvaldið ákveður eptirlaun allra embættismanna.

22. gr. Verzlunarsamninga gjörir konungur með ráði og samþykki alþingis; og eigi má hann án samþykkis þess láta af hendi nokkurn hluta landsins í hverju skyni sem vera skal; eigi skal hann heldur ráða yfir neinu af landsins sjóði, nje ákveða útgjöld.

23. gr. Konungur skal láta samankalla alþing annaðhvort ár, og má það eigi setu hafa án sjerlegra nauðsynja 6 daga yfir mánuð.

24. gr. Konungur lætur einnig samankalla annaðhvort ár helft þeirra þingmanna, er alþing hefur áður kosið og auglýst. Einnig má konungur samankalla til aukasetu hvort heldur alþingi eða helftarþing.

25. gr. Eigi má konungur láta alþingis eða helftarþingsstörf hvíla yfir viku eina, þegar það er saman komið; og hvorugu þessu þingi má hann upphleypa.

26. gr. Konungur leggur fyrir alþingi frumvörp til laga og tilskipana, og annast hann um birtingu laganna og framkvæmd þeirra.

27. gr. Þegar nauðsyn krefur, má konungur án samþykkis alþingis gefa bráðabyrgðarlög, sem þó eigi mega vera gegn grundvallarlögum landsins, og skulu þau, þegar hið næsta alþingi kemur saman, afhendast því til meðferðar.

28. gr. Náðað getur konungur hvern, sem hann vill, en stjórnarherra með samþykki alþingis, þá er landsdómur hefur þá seka gjört.

29. gr. Leyfi og undanþágur frá nú gildandi lögum, má konungur annaðhvort sjálfur, eða fyrir hönd embættismanna gefa eins og verið hefur að forngildu.

## III.

### *Um löggjafarvaldið og þjóðþingið.*

30. gr. Löggjafarvaldið er í höndum þjóðarinnar, sem kýs fulltrúa sína til þings; en þing það er tvennslags: Alþingi og Helftarþing.

31. gr. Til þinga hefur sá kjörgengi og kosningarrjett, sem kosningarlög vor af 28. sept. 1849 til greina; og sjeu æ einfaldar kosningar við hafðar.

32. gr. Tala alþingismanna skal vera tveir menn úr sýslu hverri, sem nú eru, og einn úr Reykjavíkurbæ, og 6 konungkjörnir; og skulu þessir til tveggja þinga kosnir, og hafa 2 rbdl. daglegt ígjald fyrir, auk ákveðins ferðakostnaðar.

33. gr. Tala helftarþingsmanna skal eigi minni en helmingur alþingismanna, og kýs alþingi þá úr egin flokki í hvert sinn, áður þingi er slitið.

34. gr. Alþingi kemur saman annaðhvort

ár í miðjum júlímánuði, hafi konung eigi þótt þörf að samankalla það fyrri, sem þó eigi má ske fyrir júlímánuð.

35. gr. Helftarþing kemur og saman ár hvert, sem alþingi ei er haldið, í miðjum júlímánuði, hafi konúngur eigi fyrr ákveðið.

36. gr. Samkomustaður beggja þinga er Þingvellir við Öxará; og má konungur þau hvergi annarstaðar samankalla.

37. gr. Þing bæði eru með öllu friðhelg, og er hver sá sekur landráðum, sem áreitir þau, eða lætur þeim eigi óhætt með hverju helzt móti sem vera kann, í orði eða verki.

38. gr. Alþingi einasta hefur vald til að semja og samþykkja lagafrumvörp; en verkahring helftarþingsins skal alþingi einskorða, og ákveða störf þess ár hvert um leið og til þess er kosið.

39. gr. Eigi má skatta áleggja nje afljetta, eða nokkru breyta til um þá, ekki heldur farga opinberum fasteignum landsins án samþykkis alþingis.

40. gr. Árleg fjárhagsskrá landsins skal leggjast fyrir alþingi eða helftarþing, sem fyrir hönd þar til kjörinna manna grannskoði og yfirlíti skrá þessa; og skulu nefndarmenn finna að, ef með þarf, og fá þinginu athugasemdir sínar til meðferðar.

41. gr. Ekkert lagafrumvarp má að lögboði gjörast, fyrr en 3 alþingi hafa haft þau til meðferðar, enda þó að konungur fyrr hafi samþykkt það.

42. gr. Alþingi hefur að gilda kosningar alþingismanna.

43. gr. Sjerhver alþingisfulltrúi skal í fyrsta sinni, er hann mætir á alþingi, játa með eiði grundvallarlögum landsins.

44. gr. Sjerhver alþingisfulltrúi er einasta bundin við egin sannfæringu, en eigi vilja kjósenda sinna.

45. gr. Enginn embættismaður þarf konungsleyfi til að mæta sem alþingisfulltrúi, ef kosinn er.

46. gr. Á meðan þingmenn hafa þingstörf á hendi, má enga þeirra ákæra fyrir skuldir, eigi heldur fyrir orð eða meiningar innan þings án samþykkis þingsins.

47. gr. Stjórnarherrar landsins hafa opinn aðgang að báðum þingum, og skulu þeir skyldir til að gefa þingmönnum allar nauðsynlegar skýrslur, en fylgja skulu þeir þingreglum, og eigi hafa þeir atkvæðisrjett, nema kosnir þingmenn sjeu.

48. gr. Þing hvert velur sjer forseta, varaforseta og þingskrifara af egin flokki; á hvorugu þingi má til atkvæða ganga, ef eigi eru við staddir tveir þriðju hlutir þingmanna.

49. gr. Sjerhver þingmaður má með þingsins samþykki koma fram með opinbert málefni, og skora á við komandi stjórnarherra, að gefa þar um upplýsingu og leiðbeiningu; og ekkert málefni getur fyrir þingið lagst nema fyrir hönd einhvers stjórnarherra.

50. gr. Áliti þingið eitthvert málefni sjer eigi viðkomandi, þá afhendist það hlutaðeigandi stjórnarherra.

51. gr. Hvorutveggja þing er í heyranda hljóði, þó hefur forseti og tiltekin tala þingmanna, svo sem 3 menn minnst, leyfi til að bera undir þingið, hvort málefni eitthvert skuli eigi fyrir luktum dyrum ræðast, og ræður atkvæðafjöldi, hvort svo skuli vera eður eigi.

## IV.

### *Um dómsvaldið og landsdóminn.*

52. gr. Landsdómur skal hjer eptir vera æðsti dómstóll Íslands; skal hann setinn ár hvert af 6 sýslumönnum landsins og 6 alþingismönnum að auki; hverja alla alþingi kýs til 4 ára setu í landsdóminum, sem byrjar störf sín að þinglokum.

53. gr. Auk allra þess kyns mála, sem hingað til hafa dæmd verið af æðsta dómstóli Danmerkur, skal þessi tylftardómur einn fella dóm yfir þeim, sem hafa ábyrgðarstjórn landsins á hendi, bæði þeim, sem hjer eru og í Danmörku, sem og öðrum embættismönnum landsins, þegar þeir af þjóðinni fyrir hönd alþingis ákærðir eru, fyrir stjórnar og embættisstörf þeirra.

54. gr. Aðrir dómstólar, sem nú eru í landinu, skulu að svo stöddu vera sem áður, og hafa dómendur að dæma eptir fyrirsettum lögum. Skal stjórnarherra lögstjórnarinnar hafa á hendi sama vald í landsyfirrjetti eins og stiptamtmaður hingað til.

55. gr. Auk nú verandi hjeraðsprófasta skulu þrír amtsprófastar settir í landinu, sem standa í sambandi við biskup eða stjórnar-

herra kirkjumálefnanna, og skulu þeir annast um kirkjustjórn alla í amti hverju; en hjeraðsprófastar standi aptur í sambandi við þá. Amtsprófastar þessir skulu ekki sjaldnar en sjötta hvert ár ferðast um umdæmið til að rannsaka og skoða ástand og meðferð á kirkjum og kirknagótsi, einnig embættisfærslu prófasta og presta og framferði þeirra.

56. gr. Þær umbreytingar, sem kirkjustjórn vor kynni að öðru leyti við þurfa, skal löggjafarvaldið ákveða.

57. gr. Sýslumanna embættislaun hjer eptir, einnig þá umbreytingu á sveitarstjórn vorri, sem þurfa þykir og samband hennar við sýslumenn, skal löggjafarvaldið ákveða.

58. gr. Fjárhagur landsins skal hjer eptir frá skilinn fjárhag Danmerkur, þó sje skólafjárhagurinn sameinaður fjárhag Danmerkurskóla, þar til ljós skýrsla frá hinni dönsku stjórn, samþykkt af alþingi, hefur gjört grein fyrir skólasjóð vorum.

59. gr. Frumvarp til allra umbreytinga og viðauka við þessi grundvallarlög vor skal leggja fram fyrir alþingi; og skulu það vera grundvallarlög, sem konungur og 3 regluleg alþing samþykkja.

60. gr. Löggjafarvaldið skal annast um, að öll gildandi lög, lagabætur og lagabreytingar landi voru viðkomandi, sjeu gefin út á prenti í hentugri handbók fyrir hvern mann. Skulu grundvallarlög vor jafnan standa fyrst í bók þeirri og þar næst hollustueiðar konungs vors, síðan lagabætur og lagabreytingar þær, sem þá gilda. Bók þessa skal jafnan prenta að nýu, þegar eitthvað er orðið breytt frá því, sem áður var í lögum, en árlega má prenta viðbætira þá og viðauka, sem gjörðir eru. Þannig skal lögstjórnin jafnan annast um, að hver maður geti aflað sjer þekkingar á lögum landsins eins og þau eru það ár.

---

☞ Vjer birtum yður nú frumvarp þetta, landar góðir, ekki í því skyni, að vjer finnum eigi, að því sje mjög ábótavant, heldur í því skyni, að færa yður, sem næst vjer megum efni því, sem lagt mun verða fyrir þjóðfundinn að sumri. Vjer vonum að þjer takið viljann fyrir verkið af oss, og hugleiðið sem bezt þetta vandamikla verk, sem fyrir yður liggur, og njótið þess stuðnings af frumvarpi voru, sem yður er unnt. Haldið því, sem þjer álítið þess vert, ef það er nokkuð, en kastið hinu. Vjer vonum og, að Lanztíðindin muni að sínu leyti taka frumvarp þetta til nákvæmrar yfirvegunar, og segja álit sitt um það, bæði einstakar greinir þess og alt yfir höfuð.

---

Reykjavík 1850. Útgefendur: E. Þórðarson, Jón Jónsson. Ábyrgðarmaður: Magnús Grímsson.

Prentað í prentsmiðju landsins.

kostar 4 skildinga.